

# Leiðarvísir fyrir Vesturfara til Canada.

1874.

# Leiðarvísir fyrir Vesturfara

til

## Canada.

Dominion of Canada nefnist sambandslönd Breta í norðurhluta Ameríku, og eru þau talsvert stærri en öll Norðurálfan, hin stóra canadiskajárnbraut milli Atlandshafs og Kyrrahafs byrjar hjá Halifax í fylkinu nýa Skotlandi er liggur við Atlandshafið, og á að leggjast norðan við hin stóru vötn Ontario, Huron og Superior, gegnum fylkið Manitoba og yfir Steinfjöllin til Wancouverseyunnar við Kyrrahafið, þessi storkostlega járnbraut sem nú er talsvert á leið komin, er ætlað að verði búin að tíu árum liðnum, og verður hún þá hin lengsta járnbraut í heimi, hèr um bil 3650 mílur á lengd við járnbrautargjörð þessa fæst erfiði, og borgast frá 2 til 4 rd. um daginn fyrir hvern erfiðismann.

Víðast hvar í Kanada vex Korn, og grasvöxtur er þar sèrlega góður, lands og loptslag er þar mjög hentugt fyrir allar þær ávaxtartegundir sem vaxa í tempraða beltinu, og loptið mjög heilnæmt. Skógar eru miklir með mörgum dýrmætum viðartegundum, af námum bæði kola, steinolíu og málmtegunda er landið mjög ríkt. Fiskiveiðar bæði í sjó og í vötnum eru afbragðs góðar.

Nú sem stendur er Kanada skipt í 6 hjeruð, og hefur hvort um sig sína hjeraðsstjórn. Hjeruðin eru: *1. Nova Scotia* (Nýja Skotland), 2) *New Brunswick* (Nýja Brunsvík). 3) *Quebeck* 4) *Ontario*, 5) *Manitoba* og 6) *Columbia Breta;* Mannfjöldinn í öllum þessum hjeruðum eru rúmar 3 millíónir. Á kortinu sjest hvorki vestur eða norður hluti Kanada, heldur aðeins sá hlutinn, er næstur oss er nefnil. Nýja Brunsvík, Quebeck og Ontario, er liggja miklu nær sæ, heldur en þau hjeruð í B[illegible]ndafylkjunum, þar sem menn af norðurlöndum (úr Skandinavíu og Íslandi) helzt hafa sezt að í. Af þessu er auðsætt, að korn og aðrir ávextir seljast hjer við hærra verði, að loptslagið er tempraðra.

## Uppmælt land.

Um það hvernig vesturfarar geta fengið jarðir.

Hjeraðsstjórn hvers fylkis hefur yfirumsjón yfir landi því, í hverju sjerstöku fylki, sem búið er að yrkja, nema í *Manitoba* undir sameiginlegri stjórn. Einungis þeir vesturfarar, er setjast vilja að þar geta fengið frá 100—200 »*Acres*»[1] af landi í hvaða hjeraði sem þeir vilja, fyrir alls ekki neitt, eða þá fyrir mjög lítið verð. Þó er nær því ávalt heimtað að vesturfarinn búi á jörð þeirri, sem honum hefur verið fengin, byggi þar hús, og girði hún, að minsta kosti nokkrar dagsláttur af jörðinni, Óbyggt land í hjeraðinu *Manitoba* og í Norður-Vesturhluta *Kanada*, er talið 2.764,340 □ mílur[2] þegar vötnin eru talin með, auk þess eru 764,765 □ mílur óbyggt land í hinum öðrum hjeruðum, undir sameiginlegri yfirumsjón stjórnarinnar; landið er selt eða gefið Vesturförum, sem »*Homesteads*» (heimilisjörð) með þessum skilmálum:

Landinu er skipt í ferhyrninga, 12 mílur frá norðri til suðurs og frá austri til vesturs, í hin fjögur horn eru fjórar járnstengur settar. Vilji Vesturfarar hafa minna land en þetta, er ferhyrningum þessum skipt í aðrar smærri deildir; þeim er skipt í 4 »*townships*» og í hverju þeirra eru 36 □ mílur; aptur er þessu skipt í 36 smádeildir, og er hver þeirra ein ferhyrnd míla eður 640 »*Acres*». Jörð getur hver Vesturfari fengið ókeypis með þeim skilmála, að hann noti hana sjálfur; svo getur hann og keypt hana og kostar þá hver »*Acre*» *1 dollara* (eigi geta menn fengið þá jörð, sem ætluð er til þess, að byggja skóla á, eða skógi að vaxa á). Þeir menn sem sezt hafa að á einhverri jörð hafa forgöngurjett til að kaupa hana.

»*Free Grants*» (gjafajörð). Sjerhver maður, sem er eldri en 21 árs getur snúið sjer til erindsrekans (Agenten) í landinu til að fá $^1/_4$ *Section* eða 160 »*Acres*», ellegar þá minni landsskika sem »*Homestead*». Með því að búa á þessari jörð stöðugt í 3 ár hefur hann rjett til að fá eignarbrjef (Crowndeed) og við það verður jörðin hans eign án nokkurrar borgunar, að uudanteknum 10 dollurum, er hann þarf að borga landskrifstofu-embættismanninum í þokkabót.

Brunsvik, Quebeck og Ontario, er liggja mikið nær sæ, heldur en það hjerað í Bandafylkjunum, þar sem menn af norðurlöndum (úr Skandinavíu og Íslandi) helzt hafa sezt að í. Af þessu er auðsætt, að korn og aðrir ávoxtir seljast hjer við hærra verði, að loptslagið er tempraðra.

## Uppmælt land.

Um það hvernig vesturfarar geta fengið jarðir.

Hjeraðsstjórn hvers fylkis hefur yfirumsjón yfir landi því, í hverju sjerstöku fylki, sem búið er að yrkja, nema í *Manitoba* undir sameiginlegri stjórn. Einungis þeir vesturfarar, er setjast vilja að þar geta fengið frá 100—200 »*Acres*«[1] af landi í hvaða hjeraði sem þeir vilja, fyrir alls ekki neitt, eða þá fyrir mjög lítið verð. Þó er nær því ávalt heimtað að vesturfarinn búi á jörð þeirri, sem honum hefur verið fengin, byggi þar hús, og girði um, að minsta kosti nokkrar dagsláttur af jörðinni, Óbyggt land í hjeraðinu *Manitoba* og í Norður-Vesturhluta *Kanada*, er talið 2.764,340 □ mílur[2] þegar vötnin eru talin með, auk þess eru 764,765 □ mílur óbyggt land í hinum öðrum hjeröðum, undir sameiginlegri yfirumsjón stjórnarinnar; landið er selt eða gefið Vesturförum, sem »*Homesteads*« (heimilisjörð) með þessum skilmálum:

Landinu er skipt í ferhyrninga, 12 mílur frá norðri til suðurs og frá austri til vesturs, í hin fjögur horn eru fjórar járnstengur settar. Vilji Vesturfarar hafa minna land en þetta, er ferhyrningum þessum skipt í aðrar smærri deildir; þeim er skipt í 4 »*townships*« og í hverju þeirra eru 36 □ mílur; aptur er þessu skipt í 36 smádeildir, og er hver þeirra ein ferhyrnd míla eður 640 »*Acres*«. Jörð getur hver Vesturfari fengið ókeypis með þeim skilmála, að hann noti hana sjálfur; svo getur hann og keypt hana og kostar þá hver »*Acre*« *1 dollara*. (eigi geta menn fengið þá jörð, sem ætluð er til þess, að byggja skóla á, eða skógi að vaxa á). Þeir menn sem sezt hafa að á einhverri jörð hafa forgöngurjett til að kaupa hana.

»*Free Grants*« (gjafajörð). Sjerhver maður, sem er eldri en 21 árs getur snúið sjer til erindsrekans (Agenten) í landinu til að fá ¼ *Section* eða 160 »*Acres*«, ellegar þá minni landsskika sem »*Homestead*«. Með því að búa á þessari jörð stöðugt í 3 ár hefur hann rjett til að fá eignarbrjef (Crowndeed) og við það verður jörðin hans eign án nokkurrar borgunar, að undanteknum 10 dollurum, er hann þarf að borga landskrifstofu-emhættismanninum í þokkabót.

Erindrekar (Agenter) stjórnarinnar, er eiga að sjá um innflutninga inn í landið, eru skyldir að gefa Vesturförum upplýsingar viðvíkjandi því, hvernig þeir eigi að fá sjer landshluta borgunarlaust.

Áður en eignarbrjefið er afhent nýbyggjandanum, hlýtur hann að sanna, að hann sje þegn Bretastjórnar, annaðhvort með fæðingu sinni eða hann síðar hafi orðið það. Hafi hann verið 3 ár í Kanada og svarið hollustueið, þá er hann þegn Bretastjörnar.

Vesturfarar skulu því sem fyrst sverja stjórn *Canada* hollustueið, er hann óskar sjer jarðar til eignar, þá öðlast hann óskert borgararjettindi eptir 3 ár, eða á sama tíma og hann getur fengið eignarbrjef fyrir jörð sinni.

Orsökin til þess, að stjórnin veitir eigi eignarbrjef fyrir jörðinni, fyr en búið er að búa á henni í 3 ár, er náttúrlega sú, að tilgangurinn með því að gefa land er sá, að fá landið byggt, því stjórnin hefði enga vissu fyrir því, að landið byggðist, nema að hún ljeti þenna skilmála vera í gjafabrjefinu.

Þeir menn, er eigi vilja taka jörð á þenna hátt, geta fengið keypt land af stjórninni, og kostar þá hver »*Acre*« 1 dollara.

## Jarðvegur, loptslag og afrakstur

í hjeröðum og landshlutum Canada.

Þar eð land það, er nú nefnist Canada, nær yfir 86 lengdargráður, og liðugar 30 breiddar gráður, það er að segja frá Erievatninu til 42° norðlægrar breiddar til íshafsins nálægt norðurheimsskautsbaug, þá má með

1) Einn „Acre" er 10,270½ □ álnir danskar, svo 65 „Acres" eru nálega 71 vallar dagslátta.

2) Mílur enskar eru það sem hjer eru til greindar.

sanni segja, að jarðvegurinn er þar mjög misjafn, og næstum því allskonar loptslag, og einnig er þar gnótt af afrakstri hins tempraða beltis bæði of dýra- og grasaríkinu; en þar eð hvert hjerað hefur sína eiginlegleika út af fyrir sig, er bæði kemur af því, hvernig landslaginu er háttað, og af loptslaginu og afrakstrinum, eður þá af atvinnuvegum íbúa, þá er það nauðsynlegt að lýsa hverju hjeraði sjerstaklega til leiðbeiningar fyrir Vesturfara. Vjer skulum því byrja að lýsa hinu austasta hjeraði.

## Nowa Scotia (Nýja Skotland).

Fram með ströndinni úir og grúir særinn af alskonar fiskategundum, bæði í *Fundybugtinni, Lawrentse Golf* og *Gut of Conso*. Hinar helztu fisktegundir eru þorskur, ísa, makrellur og síld. Íbúar veiða afarmikið af fisktegundum þessum bæði til eigin þarfa og til útflutninga.

Í ánum, er renna gegnum landið er fjarskalega mikið af silungi, og stundum veiðist þar lax, er þykir mjög svo ágætur.

Loptslagið í Nowa Scotia er bæði holt og þægilegt, og sjest það bezt á hinu hraustlega útliti og líkamabygging íbúa. Það er fljótséð af hinum mörgu sáðtegundum, og landið er vel lagað fyrir akuryrkju; þar eru hinar sömu sáðtegundir sem í Noregi, Svíþjóð og Danmörk. og þar að auki m a i s k o r n. Hvergi á nokkru byggðu bóli eru betri kartöflur og káltegundir, og er afar-mikið flutt af því árlega, ásamt kjöti og öðrum afrakstri landsins til Bandafylkjanna. Veturinn er hjer um bil hinn sami. sem í miðhluta Svíþjóðar. Meðfram ströndum Fundybugtarinnar er mjög þokusamt á sumrin, en henni ljettir alveg, er menn koma lengra upp í landið, og er sumarhitinn þar mikið megnari en með ströndinni. Hjer þekkja menn eigi til k ö l d u v e i k i, sem er svo mjög útbreidd í hinum suðvestlægu ríkjum, og menn geta sagt, að engir sjúkdómar hvorki „endemiskir“ (sjúkdómar, er liggja í landi), nje „epidemiske“ (landfarsóttir) eigi heima í Nowa Scotia.

Þetta hjerað hefur í sjer fólgið allt það, sem er skilyrði fyrir ríkdómi og miklum framförum. Járn og kol hafa fundist nálægt hvort öðru. Kalksteinn, marmari, gips og sandsteinn og gullnámur hvetja menn til að spara hvorki fje nje krapta. Fylki þetta er að mestu byggt.

## New Brunswick (Nýja Brúnsvík).

Loptslagið í New Brunswick er mjög holt og hagfelt fyrir akuryrkju, og eru allir á sama máli um það, professor Johnsson, sem er alkunnur rithöfundur, segir, að eptir meðaltali gefi hjer *1 «Acre»* meira af sjer en í fylkinu *New York* eða *Ohio*.

Fyrir 4 £ sterling (36 til 37 rd.) getur nýbyggjarinn fengið sjer 100 «*Acres*» land með því skilyrði, að hann setist þar að og hyrji að yrkja það; þessum 4 £ sterling er varið til vega og brúargjörða, einnig getur hann í stað þess að borga hina nefndu upphæð, sjálfur starfað að vegagjörðinni, er nemi 2 £ sterling í 3 ár, og álíst það fullnægjandi. Hann skal byggja hús, sem eigi sje minna en 16—20 feta á hvern veg, og búa í því, vera búinn að ryðja 10 «*Acres*» af jörðunni innan þriggja ára. Þegar þessir skilmálar eru uppfyltir, fær hann e i g n a r b r j e f fyrir jörðinni. Enn fremur er það við tekið, að of efni nýbyggjarans eru eigi nægileg, þá getur hann, án þess að missa eignarrjett sinn, yfirgefið jörð sína um stund, til þess að afla sjer annarstaðar efna, til að halda við heimili sínu. Land það, sem nú er búið að láta af hendi í New Brunswick, er hjer um bil 7,762,363 «*Acres*».

Járnbrautirnar hafa þegar stuðlað til iðnaðarframfara í New Brunswick, og menn ætla að innflutningar í þetta hjerað muni með tímanum varða talsvert meiri en áður. Öllum fátækum mönnum, sem nenna að vinna, mun án efa ganga vel í New Brunswick.

Í mestum hluta hjeraðsins eru miklir timburskógar, og skógarhögg er einn af hinum helstu gróðavegum, en einkum á veturna. Afar-mikið af timbri er brúkað til skipagjörðar, sem mikið er unnið að, og leiðir þar af talsverð verzlun á Vestindíu.

Í hjeraði þessu hafa fundist miklir námar, en sem allt til þessu hafa þó verið lítið unnir.

hinum suðvestlægu ríkjum, og menn geta sagt, að engir sjúkdómar hvorki „endemiskir“ (sjúkdómar, er liggja í landi), nje „epidemiske“ (landfarsóttir) eigi heima í Nowa Scotia.

Þetta hjerað hefur í sjer fólgið allt það, sem er skilyrði fyrir ríkdómi og miklum framförum. Járn og kol hafa fundist nálægt hvort öðru. Kalksteinn, marmari, gips og sandsteinn og gullnámur hvetja menn til að spara hvorki fje nje krapta. Fylki þetta er að mestu byggt.

## New Brunswick (Nýjá Brúnsvík).

Loptslagið í New Brunswick er mjög holt og hagfelt fyrir akuryrkju, og eru allir á sama máli um það, professor Johnsson, sem er alkunnur rithöfundur, segir, að eptir meðaltali gefi hjer *1 «Acre»* meira af sjer en í fylkinu *New York* eða *Ohio.*

Fyrir 4 £ sterling (36 til 37 rd.) getur nýbyggjarinn fengið sjer 100 «*Acres*» land með því skilyrði, að hann setist þar að og byrji að yrkja það; þessum 4 £ sterling er varið til vega og brúargjörða, einnig getur hann í stað þess að borga hina nefndu upphæð, sjálfur starfað að vegagjörðinni, er nemi 2 £ sterling í 3 ár, og álíst það fullnægjandi. Hann skal byggja hús, sem eigi sje minna en 16—20 feta á hvern veg, og búa í því, vera búinn að ryðja 10 «*Acres*» af jörðunni innan þriggja ára. Þegar þessir skilmálar eru uppfyltir, fær hann **eignarbrjef** fyrir jörðinni. Enn fremur er það við tekið, að ef efni nýbyggjarans eru eigi nægileg, þá getur hann, án þess að missa eignarrjett sinn, yfirgefið jörð sína um stund, til þess að afla sjer annarstaðar efna, til að halda við heimili sínu. Land það, sem nú er búið að láta af hendi í New Brunswick, er hjer um bil 7,762,363 «*Acres*».

Járnbrautirnar hafa þegar stuðlað til iðnaðarframfara í New Brunswick, og menn ætla að innflutningar í þetta hjerað muni með tímanum varða talsvert meiri en áður. Öllum fátækum mönnum, sem nenna að vinna, mun án efa ganga vel í New Brunswick.

Í mestum hluta hjeraðsins eru miklir timburskógar, og skógarhögg er einn af hinum helstu gróðavegum, en einkum á veturna. Afar-mikið af timbri er brúkað til skipagjörðar, sem mikið er unnið að, og leiðir þar af talsverð verzlun á Vestindíu.

Í hjeraði þessu hafa fundist miklir námar, en sem allt til þessa hafa þó verið lítið unnir.

Fiskiveiðar eru mikið arðberandi, og má telja þær með hinum beztu í heimi.

Fyrir menn frá norðurlöndum er það mikill hagnaður að fara til New Brunswick, og hefur nú þegar myndast nýlenda af þeim við St. Johns-fljótið fyrir tilstilli og undir forustu Captain Hellers.

## Quebeck.

**Fríland.** Það er 84,050 «*Acres*» að stærð, og gefur stjórnin 100 «*Acres*» hverjum manni, sem er eldri en 18 ára, ef hann snýr sjer til einhvers af landerindsrekum (Agenter) stjórnarinnar, og ef hann innan 4 ára er búinn að rækta 12 «*Acres*», og hefur byggt hús, þá fær hann ókeypis eignarbrjef fyrir þessum 100 «*Acres*».

Þeir hlutar af Quebeck, sem hentugastir eru fyrir nýbyggjara, eru dalirnir *Sazenay, St. Maurice,* og *Ottowa, Eastern-Township, Lower, St. Lawrence* og *Gaspe.*

Til þess að nýbyggjarar geti ræktað jörð sína, hefur það verið gjört að lögum í Quebeck, að ekki megi taka upp í skuldir hin nauðsynlegustu búsgögn hin fyrstu 10 árin, er þeir eru búsettir þar.

## Loptslag og jarðvegur.

Jarðvegur í hjeraði þessu er einkar frjófsamur; þrífast þar vanalegar sáðtegundir, grös og ávextir. Veturinn er þar kaldur, en loptið er þurt og hreint, svo menn verða eigi eins mikið varir við kuldann; sumarið er álíka og í Frakklandi, og er þannig nokkuð heitara þar en í Noregi og Svíþjóð, en þó eigi afarheitt. Þannig má segja, að loptslag sje þar mjög þægilegt.

Hinn gamli nafnkenndi bær Quebeck, sem hefir 59,700 íbúa, er aðsetur stjórnarinnar, og flytjast vörur þaðan mest úr landinu.

Aptur á móti er Montreal, sem hefur 107,200 íbúa, sá staður er helzt tekur á móti innfluttum vörum.

## Frá Ontario.

Þetta fagra land nær Ottawafljótinu að austan fyrir norðan Superiorvatnið til hinna vestlægu stranda þess að vestan, og frá takmarkalinu Bandaríkjanna, sem dregin er í gegnum vötnin Ontario, Erie, Huron og Superior, að sunnan við það er Rupertsland, en Hudsonsvíkin að norðan. Stærðarmál þess er 80 millionir «Acres», og er mestur hluti þess hentugur fyrir akuryrkju, nú er þegar búið að láta 22.200,000 «Acres» land handa nýbyggjurum. Það lítur því svo út, sem nokkuð meir en fjórði hlutinn af landinu sje nú þegar yrktur, og helftina af þeim hlutanum, sem eptir er, geta þeir fengið, sem ganga vilja að skilmálum þeim, er stjórnin setur þeim, er jarðir vilja eignast.

Ontario-stjórn hefur gefið þessar opinberu embættisskýrslur:

Jarðvegurinn er misjafn í hinum ýmsu sveitum, en mestur hluti hans er þó ágætlega lagaður fyrir akuryrkju. Skipaferðir eru á hinum stóru vötnum þar, og gjörir það útflutning þess, sem landið gefur af sjer, mjög auðveldan. Járnbrautir þær, er hvervetna ligggja um landið, hjálpa og mjög til þessa. Úr jörðunni fæst járn, koper, blý silfur, marmari, steinolia, salt o. s. frv., kol hafa enn ekki fundist; furuskógar eru þar svo miklir og alkunnir, að eigi þarf að minnast á þá hjer. Í hinum stóru vötnum er gnægð fiska, og í skógunum hinn mesti fjöldi dýra, er veiða má. Bezt er suðurhluti Ontario lagaður fyrir akuryrkju, en norðurhluti einnig fyrir fjárrækt, þarf landið þess vegna vinnukrapta við til þess að höggva upp skógana, að nota jörðina til að fá við þann, er til búskapar þarf; einnig til þess að gjöra járnbrautir og vegi, og koma þannig á samgöngum milli hinna ýmsu hluta landsins.

Þeir menn, sem byrja sem vinnumenn, eru sjaldan í þeirri stöðu, þótt þeir ekkert eigi, þegar þeir byrja, nema hrausta handleggi og góðan vilja. Eptir lengri eða skemri tíma veita þeir sjálfir öðrum vinnu, og einmitt vissan um það, að vinnan er vegurinn til efna og velferðar, veitir hinum fátæka vinnumanni góðar vonir, og hvetur hann til þess að vinna.

Þeir menn, sem koma til Ontario frá gömlu siðuðu landi, geta lifað eins þægilegu lífi þar, og í hinu forna ættlandi sínu. Barnakennsla í skóla er auðfengin og ódýr.

Fylkisstjórnin hefur látið mæla og skipta sundur 3,000,000 „Acres" lands, og hjá henni fást jarðir ókeypis. Nýbyggjar, hvort heldur karlar eða konur, geta valið úr því jörð, til þess að búa á framvegis.

Sjerhver húsbóndi getur ókeypis fengið 200 „Acres", og hver maður, sem er 18 vetra, og yfir getur eptir lögum heimtað 100 „Akcres". Þannig getur ein Familia, með mörgum börnum, sem eru 18 vetra og þar yfir, eptir fáein ár orðið sameiginlegir eigendur að stórri landeign, þegar búið er að yrkja jörðina.

Skilmálar fyrir því að fá land ókeypis eru þessir: 1) að 15 af hverjum 100 «Acres» skulu, að 10 árum liðnum vera ruddar og plægðar og minnst 2 „Acres" af þeim hafa verið notað í hin síðustu 5 ár. 2) að íbúðarhús skulu verða reist og meiga þau eigi vera minni en minnst er heimtað í kröfunum, nefnilega 16 fet á breidd, og 20 fet á lengd. 3) að nýbyggjarinn skuli búa á jörðunum, að minnsta kosti 6 mánuði á hverju ári.

**Ókeypis hús.** Í fjárlögunum fyrir árið 1871 fjekk akuryrkjuráðgjafinn ráð yfir 20,000 dollars, átti hann að verja fje þessu til þess, að láta ryðja nokkrar „Acres" (ekki yfir 5) og bygrja dálítið hús á hverjum 100 „Acres", í hinum nýju hjeruðum við Huronvatnið áður en nýbyggendur tækju þar við jörðum. Kostnaðurinn við þetta (sem ekki má vera yfir 200 dollars) eiga nýbyggendur að endurborga stjórninni áður en þeir geta fengið eignarbrjef.

Tilraun þessi gafst svo vel, að sagt er, að hið sama eigi að komast á í öðrum hjeruðum. Hinn fyrsti og mesti torveldleiki, sem verður á vegi fátæks nýbygganda í skóghjeruðum, er að byggja sjer hús, og ryðja svo mikið land, að hann geti fengið nóg korn fyrir heimili sitt haustið eptir. Með þessu ætlar stjórnin að gjöra nýbyggendunum greiðara fyrir, svo jafnvel fátæklingar geta sezt þar að. Kostnaðinn við þetta þarf hann eigi að borga aptur, fyr en hann er búinn að fá svo mikið korn

samgöngum milli hinna ýmsu hluta landsins.

Þeir menn, sem byrja sem vinnumenn, eru sjaldan í þeirri stöðu, þótt þeir ekkert eigi, þegar þeir byrja, nema hrausta handleggi og góðan vilja. Eptir lengri eða skemri tíma veita þeir sjálfir öðrum vinnu, og einmitt vissan um það, að vinnan er vegurinn til efna og velferðar. veitir hinum fátæka vinnumanni góðar vonir, og hvetur hann til þess að vinna.

Þeir menn, sem koma til Ontario frá gömlu siðuðu landi, geta lifað eins þægilegu lífi þar, og í hinu forna ættlandi sínu. Barnakennsla í skóla er auðfengin og ódýr.

Fylkisstjórnin hefur látið mæla og skipta sundur 3,000,000 „Acres" lands, og hjá henni fást jarðir ókeypis. Nýbyggjar, hvort heldur karlar eða konur, geta valið úr því jörð, til þess að búa á framvegis.

Sjerhver húsbóndi getur ókeypis fengið 200 „Acres", og hver maður, sem er 18 vetra, og yfir getur eptir lögum heimtað 100 „Akcres". Þannig getur ein Familia, með mörgum börnum, sem eru 18 vetra og þar yfir, eptir fáein ár orðið sameiginlegir eigendur að stórri landeign, þegar búið er að yrkja jörðina.

Skilmálar fyrir því að fá land ókeypis eru þessir: 1) að 15 af hverjum 100 „*Acres*" skulu, að 10 árum liðnum vera ruddar og plægðar og minnst 2 „Acres" af þeim hafa verið notað í hin síðustu 5 ár. 2) að íbúðarhús skulu verða reist og meiga þau eigi vera minni en minnst er heimtað í kröfunum, nefnilega 16 fet á breidd, og 20 fet á lengd. 3) að nýbyggjarinn skuli búa á jörðunum, að minnstá kosti 6 mánuði á hverju ári.

Ó k e y p i s h ú s. Í fjárlögunum fyrir árið 1871 fjekk akuryrkjuráðgjafinn ráð yfir 20,000 dollars, átti hann að verja fje þessu til þess, að láta ryðja nokkrar „Acres" (ekki yfir 5) og byggja dálítið hús á hverjum 100 „Acres", í hinum nýju hjeruðum við Huronvatnið áður en nýbyggendur tækju þar við jörðum. Kostnaðurinn við þetta (sem ekki má vera yfir 200 dollars) eiga nýbyggendur að endurborga stjórninni áður en þeir geta fengið e i g n a r b r j e f.

Tilraun þessi gafst svo vel, að sagt er, að hið sama eigi að komast á í öðrum hjeruðum. Hinn fyrsti og mesti torveldleiki, sem verður á vegi fátæks nýbygganda í skóghjeruðum, er að byggja sjer hús, og ryðja svo mikið land, að hann geti fengið nóg korn fyrir heimili sitt haustið eptir. Með þessu ætlar stjórnin að gjöra nýbyggendunum greiðara fyrir, svo jafnvel fátæklingar geta sezt þar að. Kostnaðinn við þetta þarf hann eigi að borga aptur, fyr en hann er búinn að fá svo mikið korn og fje, að honum er auðvelt að borga.

## Manitoba.

Úrskurður *parlamentisins* 1870 kvað svo á, að sá hluti af norðvestureignum Englands í Ameríku, sem liggur milli 96° og 99° vestlægrar lengdar (frá Greenwich), 30° norðlægrar breiddar og Bandafylkjanna, skyldi kallast *Manitoba*. Íbúar Manitoba voru 1871 taldir 11,953 *Manitoba* er 9,008,640 „Acres" og skiptist í 360 hjeröð. Hvort af hjeröðum þessum er 43,040 „Acres"; þá eru eptir 1,400,000 „Acres" og er það nóg til að mynda 60 önnur hjeröð. Þannig má sjá, að í Manitoba er nóg land. Allir þeir, er lýsa Manitoba, telja það einkar frjótt land. Stjórnarráðið í Kanada ljet 1870 þá menn, er gagnkunnugir voru, norðvestureignum Englendinga, segja sjer nákvæmlega frá landinu. Hjer skulum vjer setja eitt hið helzta vottorð, er þar kom fram.

*John James Letter*, skólakennari og bóndi frá *Portage la Prarie* fæddist við *Red River* og hefur lifað þar alla sína æfi, nema árin 1856—1858, þá var hann í *Minnesota*. Hann hefur farið 110 mílur vestur eptir landinu til *Assiniboine*. Milli fljóts þessa og landamæranna, er landið ýmist skógur eða engjar. Skógurinn er hvervetna nálægt fljótunum. Trjen eru, eik, askur, álmviður og ösp, fura og Sedrusviður er þar og. Jarðvegurinn er misjafnlega djúpur; hjá Red River er hann 1 fet, hjá Assiniboine nálægt Portage 3 fet, og sumstaðar er hann allt að 6 fetum. Hjá Portage er jarðvegurinn blandaður jarðmerg en hjá Red River er hann blandaður deigulmó. Gras það er sjálfkrafa vex á jörð vitnis þessa er hið vanalega engjagras; á sumum stöðum er það svo hátt að binda má það saman yfir hrygg á hesti; þó er það venjulega styttra. Af hveiti því er hann fjekk af jörð sinni, fóru 32 pund í skeppuna, en stundum allt að 34 pund. Á jörðinni vex bygg,

baunir, kartöflur og rófur. Mais getur og sprottið, en menn þar hirða lítið um að rækta það. Á tímanum frá í miðjum Apríl til miðs Maí er sáð, og venjulega skorið upp í Ágúst; skemmdir á kartöflum og hveiti þekkja menn ekki.

Jarðvegurinn í skógunum virðist að vera frjófsamari en jarðvegur engjanna. Indíanar hafa fundið kol nálægt Portage og náð þeim fram úr fljótsbakka þar. Kuldinn byrjar í Septembermánuði, en er aldrei svo mikill, að grasið visni; ein tegund þess er græn árið um kring. Á þessum tíma ársins eru stórgripir hafðir inni nema hestar eru látnir ganga úti.

Einusinni keypti vitni þetta nýja jörð; hús hans voru lítil svo hann varð að láta nokkuð af nautgripum sínum ganga úti; ljet hann þá vera í skjóli og voru þeir feitastir af nautgripum hans um vorið.

Snjórinn nær 1½ fet á dýpt yfir jörðinni, en sumstaðar verða skaflar. Loptslag á veturna er þurrt, og stormar fylgja eigi snjófalli. Kuldinn verður 28°—29° á Reaumur, þegar allra kaldast er, en það er mjög sjaldan. Nokkrir nágrannar vitnis þessa hafa síðustu 10 árin haft 30—40 hesta á útigangi. Þegar vitnið var í Minnesota var þar einusinni 27° kuldi. Þó kuldinn sje mikill, bíða skepnur ekkert tjón, og geta gengið úti; þoka er þar aldrei. Snjór fellur fyrst í miðju eða lok Nóvembers. Veturinn er tilbreytingarlaus, og vorið byrjar í lok Marts eða Apríls. Um vegina geta vagnar farið, og á öllum smáfljótum eru brýr. Frá heimili vitnis þessa, til Fort Harry, er vegurinn góður og grasið á engjunum er ekki nema 1 fet á hæð. Flestir íbúar eru frá Englandi og Skotlandi. Nokkrar Kanínur eru þar, og helztu fuglar eru endur, gæsir, álptir, trönur, snípur, engjahæsni og dúfur. Hitinn um miðsumarið verður 31° á Reumur og heita veðrið byrjar í miðjan Maí, næturnar eru kaldar á þessum tíma árs. Hafrar spretta vel og sömuleiðis kartöflur og rófur. Fiskar eru þar hvítfiskur, stór starri (100—200 pnd. að þyngd) katfiskur, brasenfiskur, geddur og gullaugnafiskur. Vitnið telur Red River miklu betra en minnesóta, „það er það bezta land sem jeg hef nokkurn tíma sjeð“, Hið eina er að því mætti finna er það, er það liggur langt frá hafinu,

Mörg önnur vitni, sum fædd þar, sum nýbyggendur, er höfðu flutt sig að austan til Manitoba báru hið sama. Milli Ontario og Columbiu Breta eru að minnsta kosti 100 millíónir „Acres“ sem eru eins frjóvsamt land og Manitoba og eins vel lagað til yrkingar. Nær því allt þetta afarstóra land er enn þá óbyggt.

Vesturfarar frá Norðurálfu geta þannig sjeð, að nóg er landrými fyrir þá, sem flytja þangað að minnsti kosti næstu 20 árin. *Kanadiska «pacific»*-járnbrautin, sem leggja á í gegnum þessa frjóvsömu sljettu, veitir 300—400 þúsandum manna vinnu nú þegar; þegar járnbrautin er búin, geta þeir sezt að hjá henni, og ræktað jörðina. Menn búast við, að járnbrautarfjelagið og stjórnin í sameiningu flytji vinnumenn frá Quebeck með góðum skilmálum, sem síðar verða kunngjörðir, þegar nákvæmlega er búið að ákveða þá.

## Samanburður á Kanada og Bandaríkjunum.

Áður en fylkin sameinuðust 1867, var Kanada lítið land í samanburði við það, sem það er nú. Landið skiptist í hjeröðin Ontario, Quebeck, sem bæði voru 498305 □ mílur að stærð, og náðu frá Lárentsflóa að austan og vestan að 90 lengdargráðu, en þegar hin hjeruðin og hið mikla land milli Hudsonsflóa og hinnar brezku Columbiu bættist við, þá varð það seytjánfalt stærra, og er nú hið stæðsta land í heimi. Þar eð það er 4½ million □ milna, íbúar voru áður en sameiningin gerðist 2,000,000 að tölu, en nú er sú tala tvöfölduð. Í Evrópu þekktu eigi aðrar þjóðir það en Englendingar, og þeir álitu það jafnsel ekki vera heppilega nýlendu fyrir England, þar eð loptslagið virtist næstum eins kalt á vetrum og í Rússlandi. Hinn eini bær er þekktist á norðurlöndnm (Skandinavien), var Quebeck hin nyrzta sæhöfn þess, og hið einasta merki um fólksflutninga þangað, var norsk nýlenda sem komin var í eyði; hafði hún fyrir mörgnm árum byggst við Gaspe í St. Lárentsflóa, nyrzt í Kanada, og þar sem torveldast var að koma á þeim tímum. Um afdrif þessarar nýlendu töluðu eigi aðrir en erindsrekar hlutafjelaga, er voru að kaupa og selja land, til þess að græða á í Minnesota, og leituðust þeir við að fá menn til að setja sig niður á lendum sínum, eigi vita menn gjörla hver rjeði norðmönnum þessum til að setja sig niður í þessum norð-

og rour. Fiskar eru þar hvítfiskur, stór starri (100—200 pnd. að þyngd) katfiskur, brasenfiskur, geddur og gullaugnafiskur. Vitnið telur Red River miklu betra en minnesóta, „það er það bezta land sem jeg hef nokkurn tíma sjeð", Hið eina er að því mætti finna er það, er það liggur langt frá hafinu,

Mörg önnur vitni, sum fædd þar, sum nýbyggendur, er höfðu flutt sig að austan til Manitoba báru hið sama. Milli Ontario og Columbiu Breta eru að minnsta kosti 100 millíónir „Acres" sem eru eins frjóvsamt land og Manitoba og eins vel lagað til yrkingar. Nær því allt þetta afarstóra land er enn þá óbyggt.

Vesturfarar frá Norðurálfu geta þannig sjeð, að nóg er landrými fyrir þá, sem flytja þangað að minnsti kosti næstu 20 árin. *Kanadiska «pacific»*-járnbrautin, sem leggja á í gegnum þessa frjóvsömu sljettu, veitir 300—400 þúsandum manna vinnu nú þegar; þegar járnbrautin er búin, geta þeir sezt að hjá henni, og ræktað jörðina. Menn búast við, að járnbraufarfjelagið og stjórnin í sameiningu flytji vinnumenn frá Quebeck með góðum skilmálum, sem síðar verða kunngjörðir, þegar nákvæmlega er búið að ákveða þá.

## Samanburður á Kanada og Bandaríkjunum.

Áður en fylkin sameinuðust 1867, var Kanada lítið land í samanburði við það, sem það er nú. Landið skiptist í hjeröðin Ontario, Quebeck, sem bæði voru 498305 □ mílur að stærð, og náðu frá Lárentsflóa að austan og vestan að 90 lengdargráðu, en þegar hin hjeruðin og hið mikla land milli Hudsonsflóa og hinnar brezku Columbiu bættist við, þá varð það seytjánfalt stærra, og er nú hið stæðsta land í heimi. Þar eð það er 4½ million □ mílna, íbúar voru áður en sameiningin gerðist 2.000,000 að tölu, en nú er sú tala tvöfölduð. Í Evrópu þekktu eigi aðrar þjóðir það en Englendingar, og þeir álitu það jafnsel ekki vera heppilega nýlendu fyrir England, þar eð loptslagið virtist næstum eins kalt á vetrum og í Rússlandi. Hinn eini bær er þekktist á norðurlöndnm (Skandinavien), var Quebeck hin nyrzta sæhöfn þess, og hið einasta merki um fólksflutninga þangað, var norsk nýlenda sem komin var í eyði; hafði hún fyrir mörgnm árum byggst við Gaspe í St. Lárentsflóa, nyrzt í Kanada, og þar sem torveldast var að koma á þeim tímum. Um afdrif þessarar nýlendu töluðu eigi aðrir en erindsrekar hlutafjelaga, er voru að kaupa og selja land, til þess að græða á í Minnesota, og leituðust þeir við að fá menn til að setja sig niður á lendum sínum, eigi vita menn gjörla hver rjeði norðmönnum þessum til að setja sig niður í þessum norðvesturhluta landsins, þar sem milliónir „Acres" af kostbezta landi vóru fáanlegir í hinu frjóvsama landi fyrir sunnan og vestan, en það gjörir ekkert til, það var heimska að fylgja því ráði; það var eins og sveitabóndi, sem gat sezt að hvar sem hann vildi á norðurlöndum skyldi fara nyrzt norður á Noregstá, og veiða þar rostunga, hreindýr og bírni, í stað þess að setjest niður á frjóvsamri jörð á Sjálandi eða Skáni; en Kanada er nú kunnugri 1874 en fyrir 20 árum eða jafnvel 10, þar í landi þekkist nú kostbezta land í öllum Vesturheimi, og helmingi stæra en í Bandafylkjunum er land það, sem hentugt er til að rækta í hveiti, bygg, hafra, rúg, fóðurjurtir og kálmeti það, sem vex í hinu tempraða belti, og þótt norðaustantil í Kanada sjeu lengri vetrar og meiri snær, þá er aptur á móti í Bandafylkjunum steykandi sólarhiti, sumur svo aldrei kemur dropi úr lopti, og fykna-miklar eyðimerkur sunnan- og suðvestan til á landinu. Það er óefað, að Kanada hefur miklu meira akur- og engjalendi en hinar miklu lendur fyrir sunnan, og þarf þar eigi vatnsveitinga við til að afla korns, og er þar heilnæmt loptslag fyrir norðurálfubúa.

Rithöfundar og erindsrekar Norðuramerikumanna eru vanir að kalla Kanada ísi-þakið-land, en á kortinu má sjá, að öll hjeröð nema nokkur af hinni brezku Columbiu liggja sunnar en Berlín og Lundúnaborg, og hinir miklu dalir norðvestantil í landinu, *Saskatchewan* og *Assinabone* er hin kanadiska kyrrahafsbraut á að ganga í gegnum, liggja sunnar en Stokkhólmur.

En breiddargráðan ein ræður ekki loptslagi, heldur hefur hæð yfir sjávarmál, fjöll, skógar og vötn áhrif á það. Veturinn 1872 helfrusu margir Svíar og Norðmenn á hásljettunum í Minnesota, sumir í húsum sínum, aðrir á vegum úti, einnig fenti fje og hesta, en slíkt óveður hefur aldrei spurst til að hafi verið í Kanada.

## Trygging lífs og eigna.

Land, loptslag og auður hins nýja heims er eðlilegt að leiði Vesturfara til að leita þangað, en þá gjöra þeir bezt í að spyrjast fyrir um hvaða fólk þeir hitti þar fyrir, og hversu lögum og stjórn sje þar háttað. Í Kanada er stjórn góð. og skattar, tollar og afgjöld mjög lág. Aldrei hefur það spurst, að nokkrum dómara hafi nokkru sinni verið mútað, og löggjafarþingið í Kanada er alþekkt um heim allan fyrir rjettvísi; jafnvel í hinum afskekktustu nýbyggðum þarf maður alls ekki að óttast skammbissu eða stingknífa, og sjaldan skerða þar þjófar eign manna. Áflog milli drukkinna manna eiga sjer náttúrlega stað eins og í öðrum frjálsum löndum, en menn ganga eigi hópum saman í fjelög til rána og gripdeilda.

## Hverjum helzt sje ráðlegast að fara vestur.

Þeir menn, sem helzt munu komast áfram vestra eru þeir sem nú skal greina:

Peningamenn, er vilja leita sjer atvinnu: fjelitlir bændur. Þeir geta keypt sjer land og keypt fólk fyrir svo litla peninga, sem vart mundi nægja til að reka búsýslu í Norðurálfunni. Mikil er og eptirsókn eptir duglegum vinnumönnum og vex ávalt.

Iðnaðarmenn, einkum járnsmiðir, duglegir timburmenn, snikkarar, skóarar, skraddarar, bókbindarar, múrarar, málarar, jarðyrkjumenn.

Saumastúlkur duglegar, vinnukonur, sveinar og meyjar eldri en 15 ára.

Foreldrar með föstum árlegum tekjum eiga bægra með að koma sjer vel fyrir í Kanada og afla börnum sínum góðrar menntunar og koma þeim á framfæri, heldur en í Norðurálfu. Peninga má hæglega setja á vexti um 8—10 ríkisdala vöxtum af hundraði.

## Koman til Kanada.

Kanada-stjórn veitir til ferðakostnaðar frá Íslandi hverjum fullorðnum manni 9 rd. og auk þess Svíum, Norðmönnum og Íslendingum, sem vilja búsetja sig þar 6 dollara fyrir hvern heimilismann eptir að þeir hafa verið búsettir í 3 mánuði. Hið síðartalda gjald er þannig eigi ferðakostnaður, heldur styrkur sem nýbyggendum er veittur fyrsta sumarið áður en þeir eru búnir að hafa nokkurt gagn af jörð sinni, hjer að auki frían flutning á járnbraut til þess staðar hvar menn vilja setjast að.

Stjórnin í Kanada hefur sett áreiðanlega og þjónustusama erindisreka (Agenter) í Quebeck, Halifax og víðar, sem Vesturfarar eiga að snúa sjer til þá er þeir koma þangað.

## Vinnulaunin í Kanada.

Vinnulaun í Kanada eru miklu hærri en í Norðurálfu en aptur á móti er fæði, klæði og eldiviður langtum ódýrari. Vinnumenn fá 2—3 dala daglaun og duglegir handiðndmenn fá allt að 5 dölum. Duglegar vinnukonur fá vanalega 10—12 dali um mánuðinn, en góðar matreiðslukonur fá allt að 18 rd. um mánuðinn. Þó má geta þess að vinnulaun í stóru og margreyttu landi eins og Kanada, hlýtur að vera breytingum undirorpið, þar eð þau eptir eptirsókninni eru ýmist hærri eða lægri; þá hafa á þessum síðustu tímum vinnulaunin hækkað yfir höfuð að tala. Hinar nýju stórkostlegu opinberu byggingar, sem farið er að byrja á, einnig kyrrahafsbrautin í Kanada, mun útvega ½ millíón manna atvinnu þegar í stað, svo hver sá, sem vinna **vill** og **nennir**, getur fengið nóga atvinnu og góð laun að auki.

*H. Mattson,*
agent Canadastjórnar.

---

— Þar sem eg frá fyrsta að og hefi haft afskipti af flutningi vesturfara, hefi samkvæmt eigin sannfæringu verið því meðmæltur, að landar vorir, þeir er til Ameríku fara, helzt tæki sjer aðsetur í fylkinu Ontario, vil eg hjer láta í ljósi ástæður þær, er hafa orsakað, að eg hefi álitið þeim þetta betra en annað, skal þá fyrst þess getið, að stjórnin í Kanada hefur viljað hlynna að þeim fremur en stjórn Bandaríkjanna, bæði með hjálp til flutnings og aðra hjálp til að komast í veg, og þar að auki veitir þeim gefins góðar jarðir, sem annarstaðar kosta ærna peninga, hvað sjálfsagt má álítast að hafa ollað því, að flestir Íslendingar, sem til Wisconsin eða Bandaríkjanna farið hafa, eru enn þá jarðnæðislausir, en

voxtu um 8—10 ríkisdala vöxtum af hundraði.

## Koman til Kanada.

Kanada-stjórn veitir til ferðakostnaðar frá Íslandi hverjum fullorðnum manni 9 rd. og auk þess Svíum, Norðmönnum og Íslendingum, sem vilja búsetja sig þar 6 dollara fyrir hvern heimilismann eptir að þeir hafa verið búsettir í 3 mánuði. Hið síðartalda gjald er þannig eigi ferðakostnaður, heldur styrkur sem nýbyggendum er veittur fyrsta sumarið áður en þeir eru búnir að hafa nokkurt gagn af jörð sinni, hjer að auki frían flutning á járnbraut til þess staðar hvar menn vilja setjastað.

Stjórnin í Kanada hefur sett áreiðanlega og þjónustusama erindisreka (Agenter) í Quebeck, Halifax og víðar, sem Vesturfarar eiga að snúa sjer til þá er þeir koma þangað.

## Vinnulaunin í Kanada.

Vinnulaun í Kanada, eru miklu hærri en í Norðurálfu en aptur á móti er fæði, klæði og eldiviður langtum ódýrari. Vinnumenn fá 2—3 dala daglaun og duglegir handiðnamenn fá allt að 5 dölum. Duglegar vinnukonur fá vanalega 10—12 dali um mánuðinn, en góðar matreiðslukonur fá allt að 18 rd. um mánuðinn. Þó má geta þess að vinnulaun í stóru og margreyttu landi eins og Kanada, hlýtur að vera breytingum undirorpið, þar eð þau eptir eptirsókninni eru ýmist hærri eða lægri; þá hafa á þessum síðustu tímum vinnulaunin hækkað yfir höfuð að tala. Hinar nýju stórkostlegu opinberu byggingar, sem farið er að byrja á, einnig kyrrahafsbrautin í Kanada, mun útvega ½ millíón manna atvinnu þegar í stað, svo hver sá, sem vinna v i l l og n e n n i r, getur fengið nóga atvinnu og góð laun að auki.

*H. Mattson*,
agent Canadastjórnar.

— Þar sem eg frá fyrsta að eg hefi haft afskipti af flutningi vesturfara, hefi samkvæmt eigin sannfæringu verið því meðmæltur, að landar vorir, þeir er til Ameríku fara, helzt tæki sjer aðsetur í fylkinu Ontario, vil eg hjer láta í ljósi ástæður þær, er hafa orsakað, að eg hefi álitið þeim þetta betra en annað, skal þá fyrst þess getið, að stjórnin í Kanada hefur viljað hlynna að þeim fremur en stjórn Bandaríkjanna, bæði með hjálp til flutnings og aðra hjálp til að komast í veg, og þar að auki veitir þeim gefins góðar jarðir, sem annarstaðar kosta ærna peninga, hvað sjálfsagt má álítast að hafa ollað því, að flestir Íslendingar, sem til Wisconsin eða Bandaríkjanna farið hafa, eru enn þá jarðnæðislausir, en eg verð að telja það sem skilyrði fyrir verulegum framförum landa vorra í Ameríku, að þeir geti sem fyrst orðið búfastir og eignist jarðir, sem með tímanum ná afarverði í samanburði við hvað nú þekkist, og það ekki síst í Ontario, sem liggur svo vel við til lands og vatns. Enn fremur er það almennt viðurkennt af öllum er til þekkja, að eptir því sem menn flytjast lengra vestur í Ameríku, eptir því vaxa erfiðleikarnir fyrir nýlendumönnum næstum á allan hátt, og þó einna mest með verzlunina, en fyrir verzluninni fæ eg ekki séð annað fylki í Ameríku liggja betur en Ontario, sem mikinn part má við hafa skipaferðir í kring um, á St. Laurensefljótinu og vötnunum að sunnan og vestan, og eptir Ottawa-ánni að austnorðan, hjer við bætist, að fylki þetta er hið syðsta og fegursta í Canada, og er hvað loptslag og landslag snertir, sá staður, er eg hygg eiga einna bezt við landa vora í Veisturheimi að austanverðu, líka má þess geta, að þeir, er flyttu sig langt vestur, mættu heita oss að mestu horfnir, meðan þeir sem byggja Ontario, geta máske með tímanum orðið undirstaða undir verzlunarsamtökum milli Íslands og Ameríku, því öll líkindi eru til, að ekkert land muni, þegar fram í sækir, geta haft korn og timbur eins mikið og við svo vægu verði, sem Norður-Amerika, og má nú sízt fyrirfram sjá, hvað gagn hjer af mætti leiðast með tímanum.

Áður enn Canadafylkin sameinuðust 1867, hefir Canadastjórn ekki sinnt vesturflutningum manna neitt verulega, og má það telja sem aðalorsök þess, að land þar er nú fáanlegt með jafngóðum kostum, sem líkast annars hefði fyrir löngu byggð verið. Reykjavík, ár 1874.

*G. Lambertsen.*

---

*Reykjavík 1874. Einar Þórðarsson.*